{Þess íslendska Evangeliska}
{Smábóka-Félags rit No. 46.}

# Tilskrif eins evangelisks Prests,

## til síns sóknarsfólks.

Hjartkjæru vinir í Drottni!

Efni míns sídarsta Tilskrifs til ydar var: ad uppþvetja ydur til þeirrar opinberu bænagjörd-ar, med kostgjæfiligri vitjun guds húss, og ræk-ilegri brúkun þeirra andligu Gjæda, sem, fyrir hans nád, í hans húsi, veitast ydur. Nú hefur þet-ta mitt Tilskrif þad augnamid, ad rádleggja ydur þá hjartanligu og heitu Bæn í einrúmi, og uppþvetja ydur til hennar:

Þad er víst, dýrmætu vinir! ad sá stórt og mikilvægi tilgángur míns predikunar embætt-is medal ydar er þá nádur, þegar eg sæ upp-tendrad í hjörtum ydar sanna brennandi ákefd til ad æfa þá heimugligu Bæn, edur gjöra ydur ad bænræknum Manneskjum. Hafi Pre-dikanir mínar ekki þessa blessudu verkun hjá ydur, ad þér framkrjúpandi audmýkid ydur fyrir

Guds nádartróni, og finnid sterka drift í ydur til þess, med bæninni, ad ákalla Gud alvarliga um andliga blessun, þá predika eg ydur til forgéfins. Þær ydugligu áminníngar mínar um ydar syndafulla ástand, og háska þann, í hvörjum þér, sem syndarar, staddir erud, kémur ydur ad eingum notum, svo leingi þér finnid ydur ecki knúda til, ad hrópa til Guds um nád og Miskunsemi.

Hvad gagnar ydur prédikanin út af Christó þeim krossfesta, ef hjörtu ydar ecki finna til, hvörsu naudsýnligt þad er fyrir ydur, ad leita med bæninni, sáluhjálpar hjá honum og fyrir hann? Hvad notar ydur, þó eg setji ydur fyrir sjónir, hvad Gud se fús ad géfa þeim heil. Anda, sem um hann bidja, ef þér ecki gángist undir þá kosti: „ad bidja Gud um hann, af hjartans rót?" En hve yfirmáta stóra blessun mundu mín Embættis verk af sér leida medal ydar, ef þér eptir þégna uppfrædíngu bædust kostgjæfiliga fyrir i einrúmi? Ef þér vildud flýta ydur frá kyrkjunni heim til ydar, medan þánkarnir eru ecki ordnir aptur mjög sundurdreifdir, og hræríngar þær, sem þér undir predikuninni feingud, sterkar og lifandi, og hjörtun full af tilfinníngu; ef þér, seigi eg, vildud þá heimkomnir, í einrúmi bidja Gud, í nafni hans elskuliga Sonar, ad blessa þad sálum

ydar til besta, sem þér í kyrkjunni heyrdud.
á þann hátt mundi ydar kyrkju vitjun verda
ydur til bestu blessunar; þá mundud þér muna,
hvad predikad var, skilja ordid og reyna þess
krapt í ydar hjörtum; og þad góda sædi
mundi þá ecki verda ydar sálar óvini ad bráð,
ei heldur kafna undir umsorgununum fyrir þessu
lífi, edur, hjá sumum, undir audæfum og holds-
líst; heldur mundi þad þvert á móti þreyngja
sér inní ydar hjartans grunn, vökvast þar af
himnestri gródrar döggu, og bera, jafnvel hund-
radfalda, réttlætis ávexti. En, ef þér nú
spyrjid: „hvad er Bænin?" þá vil eg svara:
hún er syndarans ángistar hróp til hans sem
syndirnar fyrirgéfur; hún er sárheit laungun
eftir Guds náð í Christo, hvörja laungun eing-
inn kann ad sedja, nema sjálfur hann. Bænin
er eingin skrautlig mælska, heldur hjartans vold-
ugt hróp; ecki fögur ord og fljótandi talshætt-
ir, heldur djúplæg tilfinníng ydar synda og
misgjörda, sem knýr ydur á fund þess, sem synd-
arana frelsad hefur, til þess ad leita hjá hon-
um fyrirgéfníngar og sálubjálpar; og sú leit-
an vottar sig þá annadhvört med ákofu ákalli,
ellegar med tárum og svo heitum andvörpum,
ad þaug ei verda med ordum úttölud. Ef þér,
til dæmis, nockrusinni heyrdt hafid húngradan
mann bidja um lífsnæríngu; þad var Bæn!

Ef þér heyrdt hefdud einn til dauda dæmdan stórbrotamann, midt á ferdinni til aftökustadarins, hrópa um nád; þad var Bæn! Ef þér hefdud nockurntíma síed einn skipbrots mann, berjandist vid daudan midt í haffins ölgu, sármæna til lands upp, hvar hann fólk sæi, og fórna hondunum upp eptir hjálp; þad var Bæn! Svoleidis bad Tollheimtumadurinn, þegar hann hrópadi: „Gud vertú mér syndugum nádugur!" Luc. 18, 13. Svoleidis bad Pétur, þegar hann ætladi ad sockva: „Herra hjálpa þú mér!" Svoleidis hinn blindi Barthimæus, þá hann hrópadi! „Jesú, Sonur Davíds, miskuna þú mér!" Luc. 18, 38. Þannig bad Stephanus, þá hann útbraust med þessi ord: „Herra Jesú, medtak þú minn Anda!" Gb. 7. 59. Og loksins var þvílík Bæn Ræníngjans á krossinum, nær han sagdi: „Herra, minstú mín þá þú kémur í Ríki þitt!" Luc. 23, 42.

Öll þessi Ritníngarinnar dæmi eru svo tilgjördarlaus, einföld og einlæg, sem þaug géta verid. En sérhvört þeirra var þó sonn Bæn, því hún géck ad öllu leiti út frá hjartanu; og þess vegna urdu og þessar, til Drottins stíludu, bænir, nádarsamliga af honum heyrdar, og fodurliga uppfyldar; Tollheimtumadurinn fór réttlátur heim í sitt hús; Pétur frelsadist úr sjáfarháskanum; Barthimæus féck sjónina; Ste-

yhanus sofnadi í fridi, og Rænínginn fëck ad heira þessi blessudu ord: „í dag skaltú vera med mér i Paradís!"

Eg veit vissuliga ecki, hvørsu eg á ad útmála ydur þann yfirvættis krapt, sem fylgir sannri og réttiligri Bæn. Hún rétt sem stormar uppá himininn med heil. krapti, og þreyngir sér beinleidis til Guds, í þess kappfulla Forfedurs túngumáli: „Herra! eg sleppi þér ecki, fyrr enn þú blessar mig!" 1 Mb. 32, 36. Vér vitum dæmi til ad Bænin hefur stødvad drepsótt, klofid suudur hafid, upplokid fángelsis dyrum, læknad sjúka, uppvakid dauda; já, hvad meira er, ad hún hefur brædt þaug hørdustu hjørtu, breytt gremju til gledi, umskapad fjølda syndara, og gjørdt þá ad audmjúkum Guds dyrkurum, endurnýad Guds mind í lasta- og hneigslis-fullra manna hjørtum og svo fr.

Ef þér nú, kjærir Vinir, spyrjid: „nær sá eiginligasti og hentugasti tími sé, til ad bidja?" þá svara eg med postulans ordum: „bidjid óaflátanliga!" 1 Theff. 5, 17. En sú er þó ecki meiníngin: ad þer ætid skulud liggja framfallnir fyrir Gudi, edur óþverranliga hefja ydar roddu til himinsins; heldur hitt, ad þer sífeldt vardveitid Bænarinnar anda i hjørtum ydar, og séud alltid reidubúnir, eptir sérhvørrar tídar kríngumstædum, ad úttala bæn-

ina med ordum. Hafi Gud, til dæmis, bless-ad ydur med tímanligri vellídun, svo þér komist vel af, hafid gott húsfólk, gott nafn og rikti; þá bidjid af hjarta, ad slík lucka verdi ydur ecki ad freistíngu og snöru, svo þér med þeim ríka manni, sem Christur seigir frá, med-takid ydar góda í lífi þessu. Ef þér lídid heil-subrest, ef ydar útvortis kjör eru í einhvörju bágborin, og ef á ydur legst einhvör hús-kross, þá bidjid. ad Guds vilji verdi! bidjid, ad þér getid kannast vid Forsjónarinnar augnamid, varpad ydur med þolinmædi undir Guds hönd og uppskorid blessun af mótlætinu, fyrir ydar sálir. Kalli Gud ydur til ad gégna mörgum og þúngum skylduverkum, edur láti ydur rata i hardar freistíngar, þá bidjid, ad Guds kraptur meigi fullkomnast í ydar breiskleika, svo ad þér gétid látid ydur nægjast med hans nád, og ad allar ydar freistíngar fái þann enda, ad þér gétid velstadist.

Nær þér farid til Kyrkju, þá bidjid, svo þér med Andagt gétid svo tilreidt ydar hjörtu, ad þér réttiliga fáid tekid á móti þeirri heilsusömu nád, sem ydur i Guds ordi frambýdst, og svo tilbedid hann í Anda og sannleika. Þegar þér farid frá Kyrkjunni, þá bidjid, ad þér mættud heimflytja med ydur blessanina, til ad géta eptirleidis, svo vel í hugarfari ydar sem begdun, sýndt þad, ad Christus búi í ydur og þér í honum. Byrjid sérhvörn dag med bæn! Bænin er gulllykill sá, sem opnar himininn, svo ad blessan Guds, líkamlig — en einkum andlig — streymir þá ríkugliga yfir ydur. Endid og svo sérhvörn dag med Bæn! því Bænin er líka svo lykill sá, med hvörjum þér

gétid svo læst ydur inni í Guds nádar skjól ad eingin fær ydur þadan aptur naudugum úthýst.

Bidjid fyrir vinum ydar, ad þeir mættu í Guds kjærleiks skauti innlæstir vera, og hvíla undir hans varatekt! Bidjid fyrir ydar óvinum, ad þeirra hjörtu meigi umbreytast og sálir þeirra frelsast.

Bidjid og svo fyrir ydkar sálusorgara, ad Gud vyrdist ad veita honum audliga heilbrigdi, og uppfræda hann med sínum anda, svo hann géti vísad ødrum veg, og ordid, midt í audmýkt og kjærleika, hentugt verkfæri í hans hendi, til ad leida ydur, og marga adra, til eilífrar dyrdar. Ydar í hreinskilni elskandi Sálusorgari og þénari í Christo.

N. N.

---

## En framar um Bænina.

Eingin Gudrækinis æfing er svo naudsýnlig sem trúud Bæn, án hennar eru þær allar sem nyt fyrir utan kjarna. Lestur Guds ords og yfirvegan þess, med tómri skynseminni, betrar mann aldrei til hlýtar án Bænarinnar; Kyrkjurækt, Predikana áheirn og altarisgángá géta aldrei frelsad þann, sem framgeingur bænarlaus. Bænræktarleysi og ydrunarleysi fylgjast alltíd ad, því eingiun gétur ydrast án bænar, og einginn vardveitt Trúna, nema hann ydugliga bidji.

Bænin er sem andardráttur Trúarinnar, tapi hún þessum andardrætti, missir hún Lífid, og verdur daud Trú, sem ónýt er til sálu-

hjálpar. Bænin helgar oll þaug ytri Góðverk mannsins, þar hún hreinsar hjartað, sem á að vera þeirra uppspretta. Margur kann að synast gjöra ýmislig útvortis góðverk, en þaug eru oll dauð verk — og eingin christilig dygð — ef truada Bæn vantar. En auðvitað er: að hér er meint til þeirrar bænar sem er Andans Verk en ecki Varanna. Sú Bæn, sem, hyrduleysis vegna, er einúngis Varanna Verk, geingur Guðlasti nærst.

Af því nú Bænin er svo naudsynlig, þá áminnti Jesús og Postular hans svo ydugliga til hennar, og siálfur var hann heilar nætur á bænum. Eins voru Postular hans yfrid bænræknir menn, og hinir fyrstu Christnu. Hvad Lútherus bænrækinn var, er kunnugt af hans lífsögu. Hann vann miklu meiri sigur med sínum bænum, enn ollum sínum lærdómi, enda var hans Lærdómur og svo helgadur Gudi fyrir bænina; því hann byrjadi aldrei neina Stúderíngu svo, ad hann ei ádur giordi sína bæn til Guds; þessvegna sagdi hann opt: „vel bedid er hálf studerad" Eptir þessu dæmi ættu þeir sér allir snid ad taka, sem, til sannrar uppbyggingar sér og ødrum, vilja leggja sig eptir Gudfrædi, og sá verdur aldrei gódur Prestur sem þad ecki gjørir, eins og sá aldrei gódur Christinn, sem Guds ord heyrir bænarlaust! Hugsum því ydugliga til þessara Skáldsins heilræda:

„Bænin má aldrei bresta þig" búin er freistíng ýmislig! „þá Líf og Sál er lúin og þjád," lykill er Hún ad Drottins Nád.